# Forordning

Um̃

O-Naudsynlega mørg

# Kwgyllde.

CHRISTIANS-BORG Pañ 24. Februari Anno 1747.

Prentud a Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Friderich Hinn

## Fimte af Guds Naad / Konungur til Danmerkur og Noregs, Vinda og Gauta, Hertoge i Slesvijk, Holstein, Stormaren og Ditmersken, Greife i Oldenborg og Delmenhorst.

* * *

Vor sierleg Goodvilld fyrerfram; Med þvi ad skilest hefur af einu þvi sem Þu hefur Allra Underdanugast til Vitundar giefed þann 7. Februarii næstlidenn, ad ymser Prestar aa Voru Lande Islande, hafe i hijngad innkomnum Memorialer aa ymsum Tijmum klagad, ad þar være aa nockrum Køllum Baagende vid Presta-Gardana i þvi ad foodra so mørg Kwgyllde edur Kyr, sem løgd eru til Kallanna fraa gamalle Tijd, og med Inventariis reiknud finnast, i hvørs Hlutar Tillite Vorer Hædst saalugu Konunglegu Forfedur, hafa epterlaated, þann 3. Maii Anno 1650, þann 10. Maii Anno 1651, og þann 30. Aprilis 1692, ad þaug O-naudsynlega mørgu Kwgyllde aa Presta Køllunum, so vel sem annad Inventarium, sem Onytsamlegt og Oþarft er, mætte afhendast; Og Þu þar med Allra-Underdanugast skijrt hefur ad Landsens Asigkomulag, og Skadar sem opt falla uppaa Presta Gardanna Einge og Uthaga, vallde þvi, ad i einum og ødrum Stødum verde æ baagara og baagara ad foodra Kvikfenadenn; Og nu uppaa þad ad þeim Prestum sem þijngder eru, med fleire Kwgylldum, enn haglega kunna ad foodrast, edur og kunna ad hafa þvilijkt Inventarium, er virdest Onaudsynlegt, verde lietter giør; Þa gefum vier Þier hier med til Vitundar, ad Vier epter Þinne þannig giørdre Allraunderdanugustu Undervijsan, høfum Allra-Naadugast leift, ad Prestarner aa Islande, i þeim Stødum sem þeir eru Of-þijngder med, Of-miklu edur O-þørfu Inventario af Kvikfenade edur ødru, meige under Adgiætslu og Tilsioon vidkomande Biskups og Profasts, Selia þad sama fyrer so miked sem þar fyrer faast kann, Epter Verdlage þvi sem i Landenu geingur, og maa þad Inventarium sem þannig burtselt er, wrgaanga og fraa-skrifast, og sku-

ku þeir Peningar sem fyrerkoma, edur hvad añad sem fæst kañ Nytsamlegra, eñ þad sem ædur var, aptur Jñfærast i Inventarium, svo þad filge Køllunum og afhendest Epterkomendum; Hvar epter Þu hefur Þier ad hegda hid Allraunderdanugasta, og þessa Vora Allra-Nædugasta Skipan Vidkomendum i bædum Stiftunum þar i Lande ad læta kuñgiøra til Allraunderdanugustu Epter-Rettingar; Þar med skiedur Vor Vilie. Felande Þig Gude. Skrifad a Voru Slote Christians-Borg ad Voru Konunglegu Setre Kaupmaña-Høfn þañ 24. Febr. Anno 1747.

Under Vorre Konunglegre Hende og Signete.

**Friderich R.**

**(L.S.)**

Von Holstein.

Til Stift-Amtmañsens HENDRICH OCKSEN Ahrærande ad Prestar a Islande, þar sem þeir eru þijngder med Of-miklu edur Onijtu Inventario af Fenade edur ødru, meige selia þad med Tilsioon Biskups og Profasts, fyrer þad sem epter Verdlage i Landenu kañ i Stadeñ ad fæst, og ad þad selda af Inventario meige wrskrifast, og þeir feingnu Peningar edur añad aptur Jñfærast.

* * *

Epter mier Allra-Nædugast giefeñe Instruction, Er þesse Forordning um Ofmiked og Oþarft Inventarium, wtløgd a Islendsku epter þvi Danska Exemplare, og læteñ a Prent wtgañga. Test. Hoolum D. 31, Augusti 1747.

Halldor Brinjolfsson.

Superint. Hoola Stift.

* * *